Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

21. tölublað | Þriðjudagur 23.5.1978 | verð kr. 100.-



# Valkosturinn er Kommúnistaflokkurinn




Ólíkt hafast þau að marxísku-lenínísku samtökin á Íslandi, annars vegar Kommúnistaflokkurinn og hins vegar Eik(ml).

Kommúnistaflokkurinn hefur sem kunnugt er ákveðið að bjóða fram til þingkosninganna í Reykjavíkurkjördæmi og lagt fram lista sinn til þeirrar baráttu. Sá framboðslisti er skipaður fólki úr alþýðustétt sem staðið hefur framarlega í verkalýðsbaráttunni á undanförnum árum. Tilgangur framboðsins er sá að fylgja eftir þeirri stefnu sem Kommúnistaflokkurinn hefur rekið innan verkalýðshreyfingarinnar og annarra fjöldahreyfinga. Sérstök áhersla er lögð á þrjú mál 1) þ.e. í efnahagsmálum að dagvinnutekjur nægi til framfærslu alþýðufjölskyldna og að auðvaldið beri sjálft byrðar eigin kreppu, 2) verndun lýðréttinda s.s. samningsréttar og málfrelsis, 3) baráttuna gegn allri heimsvaldastefnu - Ísland úr NATO - herinn burt.

Eik(ml) hefur afráðið að taka ekki þátt í þingræðisbaráttunni að þessu sinni, að öðru leiti en því að hvetja fólk til að skila auðum seðli. Ástæðurnar fyrir þessari afstöðu sinni segja Eik(ml) vera "að mannafli okkar baráttufúss verkafólks er enn ekki nægilega mikill til að óhætt sé að birta og auglýsa svo stóran hóp sem framboðslistar og meðmælendalistar krefjast". (Það er 124 manns.) "Baráttustefnan hefur ekki náð að aðgreina sig frá klíkum hentistefnumanna og falssósíalista". "Eik(ml) eru ung samtök, sem enn hafa tiltölulega lítil tengsl við verkafólk", "Eik(ml) búa

framhald á síðu 5

## í blaðinu
### Viðtal við Sigurð Jón Ólafsson



Sigurður Jón Ólafsson.

Á bls. 3 er viðtal við Sigurð Jón Ólafsson iðnverkamann úr Straumsvík. Sigurður er félagi í Kommúnistaflokknum og skipar annað sætið á lista hans til Alþingiskosninganna í Reykjavík. Hann reifar hér ýmis mál varðandi verkalýðsbaráttuna og starf flokksins.

# Starf og barátta leigjenda

Frá því snemma í apríl s.l. hafa verið starfandi hópar áhugafólks um málefni leigjenda á Íslandi. Þessir hópar hafa unnið að undirbúningi að formlegum stofnfundi leigjendasamtaka, er vinna skyldu að lausn húsnæðisvandamála leigjenda á Íslandi og gæta hagsmuna þeirra.

Þann 18. maí s.l. var svo stofnfundurinn haldinn og hlaut félagsskapurinn nafnið Leigjendasamtökin. Með stofnun þessara samtaka er náð mikilvægum og langþráðum áfanga en hann er þó aðeins fyrsta skrefið. Eftir er að styrkja innra skipulag samtakanna til að gera þau fær um að heyja baráttu sína af krafti út á við. Til þess þarf að auka fjölda meðlima, treysta fjárhag og tengsl samtakanna við verkalýðshreyfinguna.

Leigjendasamtökin munu reka ráðgjafar- og upplýsingastarfsemi, gefa út blöð og dreifirit, halda fundi og taka þátt í umræðum um húsnæðismál, hvetja til byggingar leiguhúsnæðis á félagslegum grundvelli og vinna að setningu löggjafar sem tryggi rétt leigjenda gagnvart leigusölum.

Styrkur Leigjendasamtakanna byggist á fjöldavirkni þeirra þ.e. að almennir félagsmenn séu virkir í starfshópum og að samtökin séu í sem nánustum tengslum við verkalýðshreyfinguna og njóti styrktar frá henni. Eins er mikilvægt að flokkspólitísk samtök og önnur félagasamtök sem hlynnt eru baráttu leigjenda styðji samtökin eftir mætti.

Starfshópar Leigjendasamtakanna hafa unnið að ýmislegum rannsóknarverkefnum og heimildasöfnunum sem nauðsynlegt er fyrir samtökin að geta gengið út frá í baráttu sinni. Þessi verkefni eru mjög viðamikil og langt frá því að þeim sé lokið. Unnið hefur verið að rannsóknum varðandi ástand leiguhúsnæðis, og byggingamál, greiðslufyrirkomulag, fjölda leiguíbúða og hvar þær er að finna, stefnu stjórnmálaflokkanna og sögu verkalýðshreyfingarinnar í sambandi við leigjendamál.

Eitt þýðingarmikið verkefni Leigjendasamtakanna er að tryggja réttindi leigjenda gagnvart lífeyrissjóðunum.

Þar sem fólk er almenn skyldað til að greiða í lífeyrissjóði, eru leigjendur beittir þeim órétti að fá ekki lán úr sjóðunum vegna þess að þeir eiga ekki veðhæfar eignir (fasteignir). Í niðurstöðum eins starfshóps samtakanna segir svo um lífeyrissjóðina orðrétt: "Fólk sem ekki á fasteign og getur því samkvæmt lögmálum kerfisins ekki fengið lán úr lífeyrissjóðum sínum - borgar enn fremur hærri skatta en þeir sem fá lánin, þar sem hinir síðarnefndu njóta vaxtafrádráttar við skattlagningu. Sá hluti af vinnulaunum hinna eignalausu sem lendir í lífeyrissjóðunum rennur eftir þremur leiðum í hendur þeim

framhald á síðu 5

# Olíubann í orði - Undanþágur í verki

Þegar Stéttabaráttan var að fara í prentun, bárust þær fregnir boðleiðina að forystumenn Dagsbrúnar hefðu gefið olíuauðmönnum undanþágur frá hinu svonefnda innflutningsbanni á olíu sem tilkynnt var á hátíðahöldum ASÍ-forystunnar á 1. maí að sett yrði á.

Bannið var boðað með 10 daga fyrirvara og átti að standa í tvær vikur. Þátttakendur í aðgerðunum eru Dagsbrún í Reykjavík, Hlíf í Hafnarfirði, Hörður í Hvalfirði og verkalýðsfélagið á Seyðisfirði.

Eins og Stéttabaráttan benti þegar í stað á voru nægar olíubirgðir til í landinu, þannig að olíufélögin og samgöngukerfi landsins stæðust tveggja vikna innflutningsbannið án erfiðleika. Enda varð verkalýðsforystan að framlengja bannið en þegar svo að því dró að það hefði áhrif í þjóðlífinu og sovéskt olíuskip hafði legið úti af Hafnarfirði í 5 daga, þá var Dagsbrúnarforystunni nóg boðið. Guðmundur J. Guðmundsson og Eðvarð Sigurðsson höfðu enda náð tilgangi sínum með olíubanninu þ.e. að bjarga andliti sínu fyrir framan verkalýðinn á 1. maí.

Olíubannið höfðu þeir ekki sett á til að þvinga atvinnurekendur til að standa við gerða samninga. Það sannar undanþágan sem Dagsbrún veitti en Hlíf ekki. Þegar komið er við kaunin á atvinnurekendum snýst Dagsbrúnarstjórnin þeim til varnar.

Verkamenn! Snúumst gegn starfsháttum stéttasamvinnumannanna, því þeir reka erindi atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra innan raða verkalýðsins og sundra baráttueiningu verkalýðshreyfingarinnar.




Á þessum fundi lýsti Guðmundur J. því hátíðlega yfir að innflutningsbann yrði sett á olíu. Lítið hefur nú lagst fyrir kappann.

## LEIÐARI

# Íhaldið

Nú þegar tvennar kosningar eru með skömmu millibili, fer ekki hjá því að menn verði áþreifanlega varir við áróðursmátt íhaldsins. Sjálfstæðisflokkurinn rekur þrjú dagblöð, þar sem eru Morgunblaðið, Vísir og Dagblaðið. Öll þykjast þessi blöð vera misjafnlega óháð og frjáls, en öllum er þeim þó sameiginlegt að vera stjórnað af flokksmönnum Sjálfstæðisflokksins og öll eru þau fjármögnuð af atvinnurekendum og fyrirtækjum. Sjálfstæðisflokkurinn byggir sínar hallir eins og Morgunblaðshöllina og Valhöll með fjármagni fra atvinnurekendum og hvernig er það fjármagn fengið nema með arði af vinnu verkafólks? Erindreka á Sjálfstæðisflokkurinn einnig í áhrifamiklum embættum bæði í útvarpi og sjónvarpi svo sem fréttastjóra, fréttamenn og dagskrárgerðarmenn. Óhlutdrægni á að vera gætt í ríkisfjölmiðlum og af því tilefni hefur Morgunblaðið rekið upp ramakvein þegar útvarpið spilar Öxar við ána, að morgni þess dags er herstöðvaandstæðingar fara í kröfugöngu. Á sama tíma líðst það að fréttamenn reki áróður af viðbjóðslegu ofstæki hins sótsvarta afturhalds, til að ráðast á frelsisbaráttu alþýðunnar í Víetnam, Kambódíu, Chile, Ísrael og víðar. Inn í þessa svonefndu óhlutdrægu fjölmiðla eru meira að segja sóttir blaðamenn frá Morgunblaðinu til að flytja ofstækisfullar lygasögur, eins og t.d. nýlega um Kambódíu, - sögur sem löngu er búið að afhjúpa erlendis.

Það er víðar en í fjölmiðla sem íhaldsmenn troða sér og sínum. Í opinberum stofnunum raða þeir sér á jötuna, sérstaklega þó hjá Reykjavíkurborg. Nær hver einasti Sjálfstæðisflokksmaður sem kemst til einhverra metorða í Reykjavík, byrjar sinn feril í nefnd á vegum borgarinnar. Þeir yfirmenn borgarinnar sem ekki eru í Sjálfstæðisflokknum eru færri en fingur annarar handar. Það telst líka sérstök náðargjöf frá Sjálfstæðisflokknum ef almenningur fær að njóta félagslegrar þjónustu.

Félagsleg samhjálp og samstaða fólks, er eitthvert hið mesta eitur í beinum íhaldsins. Gegn þessu setja þeir sönginn um hið frjálsa framtak einstaklingsins, og athafnamanninn sem byrjar smátt og leggur hart að sér. Sumir atvinnurekendur byrjuðu smátt með fyrirtæki í bílskúr, en þeir stækkuðu fyrirtæki sitt með því að ráða til sín menn í vinnu og það er arðurinn af vinnu þessara verkamanna sem skapar auð íhaldsins. Atvinnurekendur leggja kannski sumir hart að sér, en við hvað? Þótt verkamaður vinni daga og nætur, verður hann ekki auðugur á því: En mestur vinnutími atvinnurekandans fer hins vegar í að skipuleggja svo framleiðsluna að arðurinn af vinnu verkamannsins verði sem mestur. Það frelsi sem auðvaldið talar um er frelsi þeirra sjálfra til að eigna sér arð af vinnu verkamannsins. Til að tryggja þetta frelsi sitt hefur auðvaldið her og hernaðarbandalög. Og til að tryggja þetta frelsi sitt skerðir auðvaldið frelsi verkalýðsins með kjaraskerðingum, banni við verkföllum eða vopnuðu ofbeldi.



Keflavíkurgangan 1976.

# Breyting á framboðslistanum

Sú breyting hefur orðið á framboðslista Kommúnistaflokks Íslands til Alþingiskosninganna í Reykjavík, að Kristján Guðlaugsson mun ekki skipa sæti á listanum eins og áætlað hafði verið.

Við sæti hans þ.e. fimmta sætinu, tekur Magnús Þorgrímsson námsmaður.

Ástæðan fyrir þessari breytingu er sú að Hagstofan hefur svipt Kristján kjörgengi í Reykjavík. Kristján dvelst við námí Lundi Svíþjóð og varð því, sökum þess að hafa flutt búferlum, að kæra sig inn á kjörskrá, til að ná aftur þeim ríkisborgararéttindum Íslendinga að hafa kosningarétt og kjörgengi. Þessum réttindum eru menn sviptir ef þeir flytja úr landi og án þess að rætt sé við þá. Yfirkjörstjórn úrskurðaði að kæra Kristjáns inn á kjörskrá hefði borist of seint, jafnvel þó hún bærist áður en fresturinn til að skila inn framboðslisunum til Alþingiskosninganna rann út, 24. 5. 1978. Er það að margra dómi ranglátur úrskurður en hvað sem því líður er framboðslisti Kommúnistaflokksins jafn sterkur eftir sem áður.

# Framboðslisti Kommúnistaflokksins

1. Gunnar Andrésson, rafvirki.
2. Sigurður Jón Ólafsson, iðnverkamaður.
3. Benedikt Kristjánsson, verkamaður.
4. Margrét Einarsdóttir, kennari.
5. Magnús Þorgrímsson, nemi.
6. Jónína H. Óskarsdóttir, verkakona.
7. Soffía Sigurðardóttir, starfsmaður.
8. Skúlína Hlíf Kjartansdóttir, verkakona.
9. Ástvaldur Ástvaldsson, rafvirki.
10. Sigurður Ingi Andrésson, véltæknifræðingur.
11. Skúli Waldorff, kennari.
12. Sigurður Einarsson, sjómaður.
13. Eiríkur Brynjólfsson, kennari.
14. Norma E. Samúelsdóttir, skrifstofumaður.
15. Konráð Breiðfjörð Pálmason, iðnnemi.
16. Nanna Arthúrsdóttir, verkakona.
17. Guðrún Ægisdóttir, saunakona.
18. Björgvin Leifsson, nemi.
19. Steinunn Torfadóttir, kennari.
20. Halldóra Gísladóttir, húsmóðir.
21. Margrét Jóhannsdóttir, skrifstofumaður.
22. Ingibjörg Einarsdóttir, hjúkrunarfræðinemi.
23. Guðni Guðnason, lögfræðingur.
24. Björn Grímsson, vistmaður.



## ÚR BARÁTTUNNI

LÝÐSKRUM BÆJARSTJÓRNAR NESKAUPSSTAÐAR.

Þrátt fyrir að Alþýðubandalagið sé í meirihluta í bæjarstjórn Neskaupsstaðar, þurftu verkamenn þar að fara í verkfall 1, og2. mars síðastliðinn. Þá var því mótmælt að samningarnir voru ekki í gildi, vegna skerðingarlaga Geirs Hallgrímssonar og ríkisstjórnarinnar. Alþýðubandalagsíhaldið á Norðfirði sá ekki ástæðu til að borga út rétt kaup og rétta samninga í gildi, fyrr en nú rétt fyrir bæjar-og sveitarstjórnarkosningar, enda var því slegið upp á forsíðu Þjóðviljans. Hér er náttúrlega ekkert annað á ferðinni en kosningalýðskrum til að fá fleiri atkvæði. Ef það væru sósíalistar er sætu í bæjarstjórn Neskaupsstaðar, hefðu samningarnir verið algjörlega óskertir 1. mars s.l. Þetta er enn eitt dæmið um það, að Alþýðubandalagið er undir stjórn afturhaldssamra krataforingja er bera hagsmuni verkamanna ekki fyrir brjósti.



Kommunista flokkinn

# Andheimsvaldabarattan

Í ályktun frá stofnþingi KFÍ ml, segir ma.: "Baráttan á Íslandi gegn USA-heimsvaldastefnunni má ekki fela í sér grandvaraleysi gagnvart heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og annara heimsvaldaríkja. Við verðum því samhliða baráttunni gegn NATO og hernum að leggja mikla áherslu á þá gífurlegu hættu sem stafar af útþenslustefnu Sovétríkjanna. Þessi barátta er jafnframt barátta smáþjóðar fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar og sjálfstæðis síns... Í þessari baráttu verður KFÍ/ml að stuðla að sem breiðastri samfylkingu vinnandi alþýðu og annarra and heimsvaldasinna undir forystu verkalýðsstéttarinnar

Barátta íslensku alþýðunnar fyrir úrsögn Íslands úr NATO og brottrekstri hersins frá Íslandi er hluti af baráttunni gegn hernaðarstefnu og stríðsundirbúningi risaveldanna. Þessi barátta er stuðningur við baráttunna gegn heimsvaldastefnu, hernaðarbandalögum og fasisma, hvar sem er í heiminum. Þess vegna styðjum við baráttu íslenskrar alþýðu fyrir úrsögn Íslands úr NATO og brottrekstri hersins frá Íslandi".

Kommúnistaflokkurinn telur mikilvægt að starfandi sé öflug fjöldahreyfing, er berjist fyrir brottför bandaríska hersins frá Íslandi og úrsögn Íslands úr NATO. Við teljum því tvímælalaust rétt að styðja og efla Samtök herstöðvaandstæðinga. SHA verða að treysta á baráttu fjöldans, því aðeins með öflugri fjöldabaráttu verður markmiðinu náð. En SHA verða að setja baráttu sína fram í víðtækara samhengi til þess að sýna fram á hvers vegna herinn og NATO eru óvinir alþýðunnar. Bandaríski herinn er hér fyrst og fremst til þess að verja hagsmuni Bandaríkjanna og einnig lítur íslenska auðvaldið á hann sem baktryggingu fyrir sig. Einnig stafar hætta af herstöðinni ef til styrjaldarátaka kemur. En það er einmitt margt sem bendir til að styrjaldarhættan í heiminum fari vaxandi. Nú þegar er offramleiðslu farið að gæta í hinum vestræna heimi og Sovétríkin þrengja enn að markaði þeirra. Bæði risaveldin vígbúast nú af kappi og samkeppni þeirra um aðstöðu og áhrif í hinum ýmsu löndum heims harðnar. Nauðsyn ber til að herða baráttuna gegn heimsvaldastefnu beggja risaveldanna og þurfa SHA að taka þá baráttu upp. Þá leggur Kommúnistaflokkurinn áherslu á verndun sjálfstæðis íslensku þjóðarinnar og baráttu gegn ítökum fjölþjóða auðhringa.

ÍSLAND ÚR NATO
HERINN BURT
GEGN ALLRI HEIMSVALDASTEFNU

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

- Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 15:30 - 18:30.
- Hellisandur: Sigfus Almarsson Hellisbraut 10.
- Stykkishólmur: Gísli Hjaltason P. O. Box 63.
- Akureyri Jón Atli Játvarðsson Skarðshlíð 30.
- Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38
- Hornafjörður: Skúlí Waldorff, Silfurbraut 2.
- Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.
- Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24.
- Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 11N:220, 222 46 LUND. Hrólfur B. Ágústsson Uppstigen 139-31, 421 80 GÖTEBORG.

# Viðtal við Sigurð Jón Ólafsson

Sigurður Jón Ólafsson skipar annað sæti á lista Kommúnistaflokksins í Reykjavík í alþingiskosningunum. Hann hefur starfað í tæp fimm ár í álverinu í Straumsvík, en rúmlega 100 verkamenn þar eru búsettir í Reykjavík og eru í verkamannafélaginu Dagsbrún. Sigurður sem er 31 árs, hefur starfað frá upphafi í þeirri marxísku-lenínísku hreyfingu, sem leiddi til stofnunar Kommúnistaflokks Íslands og gegnt þar ótalmörgum trúnaðarstörfum. Svo er einnig um starf hans innan verkalýðshreyfingarinnar. Hann hefur verið einn af virkustu félagsmönnum í Dagsbrún, setið á Verkamannasambandsþingi, auk þess sem hann skipaði 1. sæti á lista verkamanna, er gerðu tilraun til að bjóða fram gegn Alþýðubandalagskrötunum í Dagsbrúnarstjórninni nú í vetur.
Stéttabaráttan hafði eftirfarandi viðtal við Sigurð Jón:



Sigurður Jón Ólafsson iðnverkamaður.

## Atkvæði til Alþýðubandalagsins eru steindauð

- Nú hefur þú fyrir stórri fjölskyldu að sjá. Er ekki erfitt að finna tíma til að starfa í verkalýðsbaráttunni?

- Það er enginn vafi á því, sérstaklega þar sem börnin eru svo ung að árum. Og þar við bætist, að ég vinn á þrískiptum vöktum, þannig að þessi eðlilegu tengsl við fjölskylduna á kvöldin og um helgar eru oft á tíðum rofin. Allt þetta gerir það að verkum að sá tími sem maður hefur aflögu til þáttöku í félagsstarfsemi er harla lítill. Samt sem áður reynir maður að verða að einhverju liði eftir því sem tök eru á. En náttúrlega megum við ekki gleyma því, að verkalýðsbaráttan fer líka fram á vinnustöðunum og því er það, að maður reynir að skapa samstöðu meðal vinnufélaganna í þeim hagsmunamálum, sem efst eru á baugi hverju sinni.

- Hver er orsök sundrungarinnar innan verkalýðsstéttarinnar og þeirra lélegu kjara sem hún býr við í dag?

- Við höfum sjálfir verið sakaðir um það að vera sundrungarafl innan verkalýðshreyfingarinnar. En er það svo, þegar málin eru athuguð niður í kjölinn? Verkalýðsforystan er slitin úr tengslum við daglegt brauðstrit hins almenna verkamanns vegna þess að margir úr röðum hennar gegna ýmis konar embættum, eiga sæti í nefndum o.s.frv. og búa þar af leiðandi við betri fjör en þeir lægst launuðu meðal verkalýðsins. Það er nær ekkert samband á milli verkalýðsskriffinnanna og fjöldans í félögunum. Þessir menn líta á sig sem hálfgerða einræðisherra; þeir taka ákvarðanir upp á eigin spýtur - án nokkurs samráðs við meðlimi verkalýðshreyfingarinnar. Er þá hægt að búast við miklum árangri, þegar svo er háttað um ástandið innan verkalýðshreyfingarinnar? Við getum tekið verkfallið 1. og 2. mars til að mótmæla kjararánslögum ríkisvaldsins sem dæmi. Er nema eðlilegt, að þátttakendur hafi ekki verið meiri en raunin varð á, þegar til kom einhliða ákvörðun ASÍ-forystuklíkunnar og að hún hvatti ekki til raunhæfrar baráttu? Getum við þá ekki dregið þá niðurstöðu, að það er verkalýðsforystan, sem í raun og veru er sundrungaraflið? Og getum við þá ekki líka sagt með sanni, að það sé fyrst og fremst sök þessara forystumanna, vegna máttlausra baráttuaðferða þeirra, að íslenskt verkafólk geti ekki lifað af dagvinnutekjunum einum saman, en ekki að atvinnuvegirnir þoli ekki frekari kauphækkanir?

- Af hverju er Kommúnistaflokkurinn að fara út í alþingiskosningar? Er ekki sundrung vinstrimanna næg fyrir? Verður ekki bara um að ræða dauð atkvæði?

- Þegar kommúnistar bjóða fram til kosninga er nauðsynlegt, að þeir geri fólki grein fyrir því, að þeir líta ekki á alþingi sem einhvern baráttuvettvang; í mesta lagi getur verið um að ræða stuðning fulltrúa verkalýðsins á þingi við þá baráttu sem fram fer almennt í þjóðlífinu. Alþingi er að okkar domi lítið annað en kjaftasamkunda - ekki valdastofnun. Hin raunverulegu völd eru hjá stóreignamönnum og eigendum einokunarfyritækjanna. Ríkisvaldið er í þeirra höndum til að framfylgja þeim lögum og reglum, sem eru í þágu borgarastéttarinnar. Á þetta verður Kommúnistaflokkurinn að leggja áherslu í kosningaáróðrinum. En á meðan alþýða menna trúir og treystir á þingið og þingflokkana til að koma málefnum hennar á framfæri, verða kommúnistar að taka þátt í þessu stórkostlega sjónarspili.
Það er ekki endilega gert til að fá sem flest atkvæði, heldur má líta á þetta framboð okkar sem þátttöku í þeim þjóðfélagsumræðum, sem fram fara í kringum hverjar kosningar, auk þess sem þetta er kjörið tækifæri til að auglýsa stefnu flokksins, en eins og allir vita höfum við ekki jafn góða aðstöðu og aðrir stjórnmálaflokkar til að koma fram í fjölmiðlum.
Það má heldur ekki gleyma því - og á það leggjum við ríka áherslu á að það er nauðsynlegt fyrir verkafólk að eignast sína fulltrúa á þingi. Þó að alþingi sé enginn baráttuvettvangur eins og ég sagði áðan, heldur aðeins kjaftasamkunda, getur slíkur fulltrúi engu að síður unnið þar að framgangi hagsmunamála íslenskrar alþýðu og stutt þá baráttu sem fram fer utan þings.

Öðru máli gegnir um starfshætti Alþýðubandalagsins. Það leggur alla ágerslu á starfið fyrir kosningar. Það notfærir sér óánægju hinnar vinnandi alþýðu til atkvæðasmölunar í stað þess að skipuleggja baráttuhreyfingu meðal fjöldans og treysta samstöðu hans. Þetta kemur mjög vel í ljós í einu aðalslagorði Alþýðubandalagsmanna nú fyrir kosningarnar: Kosningar eru kjarabarátta. Og Eðvarð Sigurðsson, formaður Dagsbrúnar, lýsti því yfir í viðtali við Þjóðviljann, að kjörseðillinn væri nú biturt vopn í höndum alls launafólks í hagsmunabaráttunni. Ef takast á að hnekkja þessum kaupránslögum, þá verður sú barátta að fara fram innan verkalýðshreyfingarinnar, á vinnustöðunum og hjá einstökum stéttarfélögum. Alþýðubandalagskratarnir í verkalýðsforystunni hafa ekki hirt um að mynda slíka samfylkingu meðal vinnandi fólks. Á það má t.a.m. minna, að enginn fundur hefur verið haldinn hjá Dagsbrún síðan í febrúar og það er ekki ennþá farið að halda aðalfund í þessu félagi, en lögum samkvæmt átti hann að vera haldinn fyrir 15. feb.
Það sem Alþýðubandalagsforystan einblínir á eru ráðherrastólarnir og það er alveg óhjákvæmilega að seta þeirra á þessum eftirsóttu stólum er þjónusta við einokunarauðvaldið, hvort sem menn eru allir að vilja gerðir til að þjóna hagsmunum verkalýðsins eða ekki.
Það er oft sagt við okkur, að þau atkvæði, sem greidd eru Kommúnistaflokknum séu dauð atkvæði og að þau verði aðeins til að hjálpa íhaldinu, en mitt álit er hins vegar, að þau atkvæði sem falli í skaut meðorðastritara og eru aðeins til að viðhalda óbreyttu ástandi eru steindauð atkvæði.

- Nú er það stefa flokksins að treysta á skipulagningu fjöldans, alþingi götunnar. Hvernig vinnur flokkurinn að þessum málum?

- Meginverkefni flokksins er að starfa innan fjöldahreyfinga og á vinnustöðum til að mynda samfylkingu meðal verkafólks um brýnustu hagsmunamál þess. Fyrst og fremst er um að ræða starf innan verkalýðshreyfingarinnar, í þeim stéttarfélögum, þar sem fulltrúa okkar er að finna, og á hinum einstöku vinnustöðum. Einnig má nefna hreyfingar eins og Samtök herstöðvaandstæðinga og Rauðsokkahreyfinguna. Það sem skiptir máli í starfi okkar innan slíkra hreyfinga er, að ná sem víðtækasti samstöðu í hagsmuna- og baráttumálum sem um er að ræða hverju sinni. Þessa samstöðu reyndum við að mynda án tillits til ólíkra stjórnmálaskoðana og án þess að auglýsa flokkspólitíska aðild okkar. Það er hægt að vinna að framgangi stefnu flokksins án þess að vera sífellt að klifa á því, að þessi eða hin stefnan sé nú eign Kommúnistaflokksins eins og sumir pólitískir þröngsjónarmiðsflokkar virðast hafa unun af að gera. Það eru hagsmunir verkalýðsins, sem ávallt verður að sitja í fyrirrúm allrar starfsemi flokksins.

- Hefur þú ástæðu til að halda að Kommúnistaflokkurinn fái sterka stuðningsyfirlýsingu í þessum fyrstu kosningum er flokkurinn býður fram til?

- Ég vil engu spá um atkvæðatölur. Þegar talað er um sterka stuðningsyfirlýsingu er sjálfsagt átt við eitthvert ákveðið magn atkvæða. Þetta er fámennur flokkur, sem ekki hefur jafna aðstöðu á við aðra stjórnmálaflokka í landinu og hefur ekki bolmagn til þess að demba áróðri yfir kjósendur í jafn miklum mæli og hinir flokkarnir. Miðað við allar aðstæður tel ég það nokkuð sterka stuðningsyfirlýsingu, ef flokkurinn fær ekki undir 6-700 atkvæði. Með fáeinum hundruðum atkvæða auglýsum við aðeins veikleika okkar.
Annars vil ég taka það skýrt fram, að styrkur flokksins felst ekki einvörðunga í atkvæðamagninu. Þannig er t.d. fjöldi fólks sem styður stefnu okkar og starfshætti í einstökum afmörkuðum málum, en er ekki reiðubúið til að samþykkja pólitíska stefnuskrá okkar almennt. Þessu er t.d. svo háttað um starf okkar innan verkalýðshreyfingarinnar. Þar má finna verkafólk úr hinum ólíkustu stjórnmálaflokkum, sem ber traust til okkar og er fylgjandi okkar afstöðu til verkalýðsmála.




Frá kröfugöngu Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðaeiningar á 1. maí sl.

# Efnahagsmál í sjónvarpi: Alþýðan blekkt

framhald af baksíðu

Vísitölur eru það tæki sem notað er til að mæla verðlagshækkanir. Fram koma að reiknaðar eru út ýmsar vísitölur eins og t.d. fyrir: Verðlag þjóðarframleiðslu, inn- og úflutningsverðlag, viðskiptakjör, byggingarkostnað, vöru og þjónustu, framfærslukostnað og verðbætur. Þá var sérstaklega rætt um vísitölu framfærslukostnaðar og verður sá kafli af þessum afspyrnu lélega þætti að teljast, skástur, jafnvel þó ekkert hafi verið minnst á það hvernig sú vísitala er marg svikin. Þarna komu fram nokkrar athyglisverðar upplýsingar m.a. þær að vísitölufjölskyldan ( hjón með tvö börn ) þurfti 1. febrúar síðastliðinn 207 þúsund krónur á mánuði sér til framfærslu ( við þessa tölu má svo bæta þónokkru, þar sem vísitalan er fölsk ). Það er athyglisvert að hin einu sönnu Eik/ml krefjast þess mú að verkalýðurinn fái að lifa af 150 þús. á mánuði, ekki eru þetta halaklebrar Gvendar Jaka

VERÐBÓLGAN

Það sem flestir hafa sjálfsagt beðið eftir að fá upplýst, þegar þeir settust við sjónvarpstækið sitt á þriðjudagskvöldið til að horfa á þáttinn um verðbólguna er, hverjar eru orsakir óvættarins. En svörin sem þátturinn veitti voru vægast sagt ófullnægjandi. Í sannleika sagt fengust engin svör og " sérfræðingar" vorir virtust algerlega tómir í kollinum.

Helst var að heyra að verðbólga væri verðhækkanir eða verðhækkanir væru orsök verðbólgu.. Annars gerðu stjórnendur heldur litlar tilraunir til að útskýra orsök verðbólgunnar og er ekki gott að segja hvort þar er um að kenna vilja-eða getuleysi. Það sem einna næst komst einhverjum útskýringum var þegar verðbólgunni á Íslandi var fundinn skyldleiki með verðbólgunni í þróunarlöndunum. Til skýringar á því hvers vegna verðbólgan á Íslandi væri með slíkum ofsa sem hjá þróunarlöndunum (en líktist ekki verðbólgu hjá öðrum vestrænum ríkjum) var bent á einhæfa framleiðslu í landinu og óstöðugt verðlag erlendis, á útflutningsmörkuðum okkar. Ekki var leitast við að skýra málið nánar, en síðar í þættinum kom fram að á árunum 1970-1977, sem er tímabil algjörs verðbólgubrjálæðis, hækkaði verðið á útflutningi okkar helmingi meira en á innflutningi. Er því ekki annað að sjá en hækkandi verðlag á útflutningsvörum sé verðbólgu hvetjandi.. Lausnin á verðbólguvandanum er því líkast til falin í því að grátbiðja útlendinga um að borga okkur minna fyrir það sem þeir kaupa af okkur.. Það er ekki tekið út með sitjandi sældinni að vera "sérfræðingur" um efnahagsmál.

HVERJIR GRÆÐA Á VERÐBÓLGUNNI ?

Það var aumkunarverð sjón að sjá aumingja mennina fara eins og ketti í kringum heitan graut þegar kom að því að sýna fólki hverjir það eru sem græða á verðbólgunni. Það er ekki með réttu hægt að segja að það sem hafi komið fram hafi ekki verið rétt, en hins vegar kom ekki fram nema hálfur sannleikurinn og var helst að heyra að það væri unga fólkið sem er að byggja og fær lán í banka sem græðir á gamla fólkinu sem er að spara og leggur þess vegna fé sitt í banka. Það var reyndar lítillega minnst á þá staðreynd að þeir sem geta á verðbólgutímum haldið óverðtryggðum lánum sem skipta jafnvel hundruðum milljóna, þeir græða á verðbólgunni.

Það má með sanni segja að þessi fyrsti þáttur af fimm um efnahagsmálin hafi verið ömurlega lágkúrulegt yfirklór til þess eins ætlað að blekkja alþýðuna í landinu og treysta með orðum "sérfræðinga" það gegndarlausa bull sem stjórnmálamenn borgaraflokkanna hafa verið að tyggja inn í þjóðina nú á síðustu árum og kallað að skýra út gang efnahagsmálanna. Sannleikurinn er sá að allir þessir sjálfsskipuðu spekingar (og þá eru Alþýðubandalagsmenn síst undanskildir) hafa bundist samtökum um það að koma í veg fyrir að alþýða manna sé leidd í allan sannleikann um orsakir hins svonefnda efnahagsvanda og verðbólgunnar.

VERÐBÓLGAN ER ARÐRÁNSTÆKI AUÐVALDSINS:

Verðbólgan er ekki neitt yfirnáttúrulegt fyrirbrigði eða óútskýranlegt hagfræðilögmál. Verðbólgan er ekkert annað en aðferð auðvaldsins til að brjóta niður kaupmátt launa verkafólks. Síðan eru fengnir einhverjir fúlir "sérfræðingar" til að útlista fyrir fólki óskaplegan efnahagsvanda og ekki láta uppkeyptir verkalýðs foringjar sitt eftir liggja að uppmála eymd auðvaldsins fyrir almúganum og brýna fyrir þjóðinni að hún verði að taka ábyrga afstöðu til atvinnu veganna.

Á árunum 1970-1977 áttu sér stað gífurlegar fjárfestingar auðvaldsins í skuttogurum og öðrum framleiðslutækjum. Þessar fjárfestingar hafa verið algjörlega skipulagslausar og fjölmörg dæmi eru um að keypt hafa verið skip sem eru meira og minna gölluð og svikin. Á sama tíma hafa verið byggðar stórar virkjanir, Sigalda og Krafla (og áður Búrfell) og stærsti hluti orkunnar verið seldur fjölþjóðaauðhringjum á verði sem er langt undir framleiðslukostnaði. Þessi orkusala hefur verið réttlætt með því að mikill gjaldeyrir fengist á þennan hátt í ríkiskassann. En hvað er hér um að vera? Er ekki verið að kaupa erlendan gjaldeyrir á "svörtum" þegar greitt er íslenskri framleiðslu (í þessu tilfelli orku, í öðru tilfelli lambakjöti o.s.frv.) Ennfremur á sama tíma og fólki var talin trú um að útflutnings atvinnuvegirnir væru á hausnum, voru einokunarhringarnir SH og SÍS í óða önn að stækka verksmiðjur sínar og auka umsvif sín í Bandaríkjunum. Á sama tíma og svo til ekkert var hægt að gefa fyrir fiskinn hér heima vegna sölutregðu á Bandaríkjamarkaði greiddu þessi sömu fyrirtæki helmingi hærra verð fyrir samskonar fisk í Færeyjum sem þau selja á sama markaði. Þettaeru

aði. Þetta eru aðeins nokkur dæmi um það hvernig auðvaldið hefur stóraukið umsvif sín á sama tíma og alþýðunni í landinu er talin trú um að allt sé í kalda kolum.

En hyggjum nú nánar að. Hvaða áhrif skildi það hafa á atvinnureksturinn þegar fjármagninu er gegndarlaust og skipulagslaust ausið í fjárfestingar, sem sumar hverjar eru kannski meira og minna óarðbærar, eins og t.d. Krafla og margir skuttogaranna sem lengstum hafa dvalið í höfn síðan þeir komu til land landsins? Áhrifin eru einfaldlega þau að fyrirtækin þrýtur rekstrarfjármagn. Og hver skildi vera leiðin til að útvega það? Jú, leiðin er að auka arðránið á verkalýðsstéttinni, sem er sú stétt sem framleiðir öll verðmæti þjóðfélagsins. Öllum ráðum er beitt. Kaupið er lækkað og verkalýðurinn er knúinn til að leggja á sig gífurlegt yfirvinnuálag. Kröfum verkalýðsins um óskert laun er mætt af hörku og allur árangur kjarabaráttunnar er gerður að engu með gengisfellingum og stöðugum verðhækkunum á nauðsynjavöru. Verðbólguskriðunni er hleypt af stað. Í henni verða lánin sem auðvaldið tók til fjárfestinga sinna að engu og kaupmáttur launa verkalýðsins er dreginn eins langt niður og frekast er unnt. Kreppu auðvaldsins hefur verið velt yfir á herðar verkalýðsins, og "ábyrgir" verkalýðsforingjar eru sendir út af örkinni til að predika verkalýðnum nægjusemi og ábyrgðartilfinningu í garð atvinnuveganna. Þeir eru að sjálfsögðu búnir að fá sína þóknun.

Það er einnig athyglisvert fyrir fólk að íhuga það hvernig einokunarhringarnir SH og SÍS fara að því að flytja fjármagn út úr landinu til Bandaríkjanna. Þetta er gert með því að ákveða verðið á fiskinum sem út er fluttur eins lágt og mögulegt er og þar með kemur gróðinn af framleiðslunni ekki fram fyrr en varan er seld á markaðinum erlendis.







HVAÐ ER TIL RÁÐA?

Verkalýðsstéttin verður að gera sér grein fyrir því að verðbólgan er skilgetið afkvæmi auðvaldsþjóðfélagsins, tæki í höndum auðvaldsins til að halda kaupmætti verkamannalauna í lágmarki. Til að snúast gegn verðbólgunni verður verkalýðurinn að snúast gegn gjörvöllu auðvaldsskipulaginu. Verkalýðsstéttin verður að kasta af sér oki arðráns og kúgunar og byggja nýtt þjóðfélag undir eigin stjórn. Liður í þessari baráttu er að snúast gegn uppkeyptu verkalýðsforystunni, svipta hana völdum og áhrifum og hefja enduruppbyggingu verkalýðsfélaganna með því markmiði að gera þau að raunverulegum baráttutækjum í þágu verkalýðsstéttarinnar. Annar þáttur í þessari baráttu er áframhaldandi uppbygging Kommúnistaflokks Íslands m-l, verkalýðsflokks sem hefur enga aðra hagsmuni en þá að brjóta verkalýðsstéttinni braut til sósíalísks þjóðskipulags. Verkalýðsstéttin á Íslandi verður að fylkja liði undir fána Kommúnistaflokksins, ekki aðeins með því að ljá honum atkvæði sitt á fjögurra ára fresti, heldur einnig og fyrst og fremst, með því að ganga til liðs við flokkinn í hinni daglegu baráttu hans og taka á þann hátt þátt í að ákveða stefnuna og baráttuaðferðirnar og hrinda verkefnunum í framkvæmd.

ENGA ÁBYRGÐ Á KREPPU AUÐVALDSINS
LÁTUM AUÐVALDIÐ BORGA
GERUM VERKALÝÐSFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM
STYRKJUM KOMMÚNISTAFLOKKINN



Kínversk alþýða beytir marxískri hagfræði og býr ekki við verðbólgu.

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

# Saga handa fullorðnum

Einu sinni voru þrír bræður.

Þeir hétu Kasper, Jesper og Jónatan.

Elstur var Kasper, fjörugur, frumlegar; stundum mikill hugsjónamaður. Næstur kom Jesper, sem var líkur Kasper þó þeir væru eigi samfeðra; hann var hægari, rólegri og ekki eins frumlegur, en stóð fyrir sínu. Og Jónatan, sá yngsti: Já, Jónatan var og hafði alltaf verið þeirra erfiðastur í skapi, þrár, sérvitur og af sumum talinn frekur, vildi alltaf ráða, strákurinn sá arna, þó yngstur væri.

Hinir bræðurnir voru nú ekki aldeilis alltaf sammála litla bróður, þóttustu ríkari af reynslu.

------

Þeir bræður voru nú orðnir fulltíða menn, en persónuleikar þeirra héldust þeir sömu. Kasper var enn fjörugur, félagslyndur, frumlegur, en var aðeins farin að hægja á sér, en hugsjónirnar voru enn til staðar.

Jesper var enn raunsær, rólegur, kannske um of, hélt sínu striki, virtist vita stefnuna, en Jónatan, þessi dugnaðarpiltur eyddi allri sinni orku, þótt fulltíða mætti heita, í að hatast út í bræður sína, sérstaklega, einhverra hluta vegna, albróður sinn, Jesper. Hann hreinlega þoldi hann ekki. Sumir ættingjar huggúðu móður þeirra og sögðu þetta bara vera sjúklega afbrýðisemi sem fljótlega, með meiri skilningi og ábyrgð, ~~mimmd~~i hverfa.

Hann var einnig að tuða í Kasper, ef þeir hittustu á götu eða í afmælum ættingjanna, að hann væri bara hentistefnumaður eða helv. trotskisinni eða hvað sem það var nú. Þó höfðu þeir allir starfað hjá Kasper um tíma eða þar til þeir slitu þessum samvistum. Nú, eins og kannske er skiljanlegt, voru eldri bræðurnir orðnir hálf leiðir á þessum "dintum" og "stælum" í litla bróður og fékk hann orð í eyra svona annað slagið. Meira að segja kenndu þeir um að Jónatan hafi fengið slæmt uppeldi, því hann var langyngstur og töldu hann hafa verið eyðilagðan af dekri og eftirlæti.

Eitt áttu þeir bræður þó sameiginlegt, þótt sundurlyndið skyggði nokkuð á það, en það var að þeir voru KOMMAR. En enginn þeirra var e i n s kommi.

Kasper var kommi 1x1.

Jesper var kommi 1x2.

Jónatan var kommi 2x1.

Þarna var reyndar allur ágreiningurinn...

Í augum Kaspers var agalegt að vera kommi a la Jesper/Jónatan.

Í augum Jespers var agalegt að vera kommi a la Kasper/Jónatan.

Í augum Jónatans var agalegt að vera kommi a la Kasper/Jesper.

------

Bræðurnir, sem voru dugmiklir og áræðnir menn, fóru að gefa út blöð.

Kasper byrjaði langfyrstur enda töluvert eldri en hálfbræður hans. Hans blað hét Neisti.

Jesper, þegar hann hafði aldur til og fjárráð leyfðu, gaf út annað blað, kommablað sem hann kallaði Stéttabaráttuna og Jónatan, nokkrum árum síðar, til að sýna að hann gæti einnig gefið út blað - en í raun hefðu þeir getað gefið út blað saman eða unnið eitthvað saman að áliti sumra (sem að sögn þeirra sögn höfðu fjandakornið ekkert vit á málunum!); hans blað hét Verkalýðsblaðið.

Allir vildu þeir fá sem flesta í sína flokka, töluðu við fólk rólega, rifust við fólk, dreifðu miðum, plötuðu fólk, meðvitað og ómeðvitað, fræddu fólk, en umfram allt skitu þeir hvorn annan út, mismikið þó, eftir karakterum hvers og eins. - Þeir löðuðu til sín fólk, sem kunni vel við þá; ekki endilega sanna hugsjónamenn, heldur fólk sem fannst þægilegra að vera í partíi með Kasper, eða fannst betur á málum haldið hjá Jesper, eða þótti mikið fútt í því að vera með Jónatan. Allir áttu þeir það sameiginlega ættareinkenni sem afkomendur Jóns Sigurðssonar, að þeir voru ósérhlífnir - þeir unnu og unnu, oft heilu sólahringana við pappírsvinnu, sátu lon og don á fundum, og við að vélrita blaðið sitt.

Svona leið tíminn. Sambandið milli eldri bræðranna og einnar hálfsystur þeirra virtist fara batnandi, ekki eins mikil rifrildi, en það sýndist mörgum að þeim yngsta, Jónatan, væri meinilla við. Kallaði hann þau hinum og þessum ónöfnum og aldrei gat hann t.d. skrifað kommúnistaflokk 1x2 öðruvísi en innan gæsalappa!

------

Fólkið, því þeir bræður voru orðnir þekktir nokkuð, fylgdist með þeim, fylgdist með þeim og margir gerðu grín að þeim. Aðrir reiddust og voru sárir. Því fannst þetta kjánalegt að berjast sín á milli og gera of mikið úr persónulegum deilumálum, en vinna ekkert saman að raunverulegum hagsmunamálum verkalýðsins.

Þetta var leiðinlegt fyrir móðurina og föðurinn.

Jesper var alltaf að bjóða Jónatan samstarf, en Jónatan sagði alltaf: "Nei, ekki fyrr en þú viðurkennir að þú hafir verið endurskoðunarsinni hérna um árið, helvítið þitt!!" Hverju sem það átti að breyta.

Ég vil stjórna. Ég vil stjórna. Ég vil stjórna, hljómaði frá húsum þeirra. Þeir vildu allir stjórna baráttu gegn borgaraflokkum landsins. Kasper, Jesper og Jónatan eiga enn þann dag í dag í erjum. Sagan er reyndar ekki löng, þeir eiga ef vel fer, eftir að finna leið til að gera heiminn betri. Þetta eru allt ágætispiltar, vantar bara Soffíu frænku til að aga þá suma hverja. Láta þá hætta þessu bræðrastríði og halda sig við hina einu sönnu hugsjón kommúnismans sem ku vera réttlát skipting verðmæta - og arðrændir og kúgaður lýður sameinist - hvort heldur er kommi 1x1, kommi 1x2 eða kommi 2x1 eða kommi eitthvað haldi því til streitu.

------

Síðast þegar fréttist voru þessar þrjár söguhetjur að hugsa málið, en fólk virðist hætt að velta vöngum mikið um gerðir þeirra bræðra; þeir eru sumir hverjir alls ekki að hugsa um hlutina sem þeir ber... Hvað verður, hver sigrar: 1x1, 1x2 eða 2x1 ?

Lína

STARF OG BARÁTTA LEJANDA

framhald af forsíðu

sem eiga eða eru að eignast: 1) úr lífeyrissjóðunum beint, 2) úr húsnæðismálastjórnarlánakerfinu, 3) úr hinu almenna bankakerfi, þar sem lífeyrissjóðir eru að hluta ávaxtaðir.

Sem sé: Frá þeim sem ekki eiga er tekið og fengið þeim sem eiga."

Enn fremur segir í niðurstöðum starfshópsins: "Undirstaða þessa kerfis eru víðtækir landvinningar hugmyndafræði eignamyndunar og verðbólgubrasks, sem rutt hafa sér æ freklegar til rúms í íslensku samfélagi á s.l. áratugum. Þessi hugmyndafræði lýsir sér svo að enginn er talinn maður með mönnum nema hann eigi einka íbúð. Í þessu efni hafa hugmyndir um manngildi vikið fyrir hugmyndum um peningagildi".

Af þessu mikilvæga máli má sjá að að mörgu er að hyggja þegar leigjendamál ber á góma eins og svo oft þegar um er að ræða alþýðufólk undir drotnunarhæl eignamanna.

Á stofnfund Leigjendasamtakanna mættu á annð hundrað manns og urðu miklar umræður um lög samtakanna og innra skipulag. Stóðu umræðurnar langt fram eftir kvöldi og var loks ákveðið að fresta almennum umræðum fram að félagsfundi, sem haldinn yrði fljótlega.

Í stjórn Leigjendasamtakanna voru kosin: Jón Kjartansson frá Pálmholti formaður, Bryndís Júlíusdóttir, Matthildur Sveinsdóttir, Jón Ásgeir Sigurðsson, Bjarney Guðmundsdóttir, Hörður Tómasson og Birna Þórðardóttir.



Ólíkt hafast kommúnistar og „ Verkalýðsblaðið " að.

# Verkalýðsblaðið: Jón og séra Jón

Í 8. tbl. Verkalýðsblaðsins birtist næsta einkennilegt greinarkorn, sem er ástæðan fyrir því að ég sendi Stéttabaráttunni þetta bréf.

Þar er Albert Guðmundsson formlega beðinn afsökunar á þeim ummælum sem Verkalýðsblaðið hafði um hann, að hann væri fasisti. Nú er það ekki tiltökumál, að Albert sé beðinn afsökunar á því, en hitt skýtur skökku við, að formælingar og sleggjudómar Verkalýðsblaðsins um ýmsa baráttumenn hafa ekki leitt til opinberra afsakana blaðsins.

Verkalýðsblaðið hefur einmitt skorið sig úr hvað það snertir, að birta orðljót ummæli um pólitíska andstæðinga sína, ekki hvað síst félaga Kommúnistaflokksins. Ósjaldan hefur þetta blað birt nöfn ýmissa félaga Kommúnistaflokksins og skeytt aftan við niðrandi nafngiftum í þeim tilgangi að sverta viðkomandi og Kommúnistaflokkinn. Ætlar Verkalýðsblaðið ekki að biðja þá afsökunar líka, eða er það álit Verkalýðsblaðsins að ekki þurfi að biðja aðra en "heldri menn" afsökunar? Já, það er annað Jón eða séra Jón. Þó tekur út yfir allan þjófabálk þegar Verkalýðsblaðið reynir að komast hjá sjálfsgagnrýni með því að koma öllu saman upp á önnur blöð. Það er hins vegar hárrétt sjálfslýsing þegar blaðið segir: "Sleggjudómar, óundirbyggðar eða rangar staðhæfingar og skortur á hlutlægni eiga ekki að sjást á kommúnísku verkalýðsblaði.." Vonandi sér blaðið að sér í framtíðinni og minnkar óhróður sinn líka um aðra en svartasta afturhald.

# Valkosturinn er Kommúnistaflokkurinn

framhald af forsíðu

sig undir að mæta krepputímum eða styrjöld og tilheyrandi kommúnistaofsóknum", "Eik (ml) álíta það baráttufræðilegt atriði hvenær kommúnistar taka þátt í kosningum á Íslandi og hvenær ekki. Staða og aðstæður ákvarða slíkt". Loks lýsa Eik(ml) yfir: "Eflum baráttuna - næst bjóðum við fram".

Tilvitnanirnar eru teknar úr málgagni Eik(ml). Í þeim úir og grúir af mótsögnum, því þar lýsa samtökin því yfir að baráttufræðilega sé rétt að bjóða fram eftir 4 ár eða skemur, þegar skollin er á styrjöld eða kreppa með tilheyrandi kommúnistaofsóknum. Þá sé rétt að auglýsa baráttufúst fólk samtakanna.

Og hvernig vita Eik(ml) það árið 1978 hvort baráttufræðilega er rétt að bjóða fram til Alþingis árið 1982.

Kjósum Kommúnistaflokkinn - Fulltrúa verkalýðsins á þing.

Í dag er íslenskur verkalýður og annað alþýðufólk upp til hópa þingræðissinnað. Það er staðreynd sem kommúnískur byltingarflokkur fær ekki gengið framhjá. Og hvað hafa þá kommúnistar upp á að bjóða verkalýðnum og annarri alþýðu í komandi kosningum?

Byltingu? Sósíalískt ríkisvald? Nei.

Er þá hægt fyrir kommúnista að standa utan við borgaralegu þingræðisbaráttuna og bjóða þar verkalýðnum ekki upp á neinn valkost annan en hunsun á þinginu og heimasetu? Nei.

Að skila auðum seðli í kosningunum og ætla sér að lýsa óánægju sinni þannig er veik og ómarkviss aðferð. Um það eru Eik(ml) greinilega sammála Kommúnistaflokknum, því annars hefðu þau ekki afráðið að bjóða fram til Alþingis næst heldur einnig þá hvatt fólk til að skila auðu.

Kommúnistaflokkurinn býður verkafólki upp á valkost. Með því að kjósa flokkinn velur fólk leið ósættanlegrar baráttu gegn auðvaldinu, stéttasamvinnustefnunni og heimsvaldastefnunni. Það tekur þátt í því að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum, virkum og lýðræðislegum fjöldasamtökum. Það tekur þátt í baráttunni fyrir afnámi einkaeignar á atvinnutækjunum og fyrir sósíalisma á Íslandi. Því er þýðingarmikið að baráttusinnar fylki sér um framboðslista Kommúnistaflokksins í komandi kosningum. Og það á einnig við um félaga Eik(ml).

Kommúnistaflokkurinn skorar á félaga Eik(ml) að standa með honum í baráttunni fyrir því að verkalýðurinn eignist fulltrúa er tali máli hans á Alþingi.

Kommúnistaflokkurinn skorar á Eik(ml) að láta af smásmugupólitík sinni og einangrunarstefnu. Þannig að Eik(ml) taki þátt í baráttunni, með félögum Kommúnistaflokksins gegn sameiginlegum óvinum, á þeim orustuvöllum þar sem baráttan fer fram.

Kommúnistaflokkurinn minnir félaga Eik(ml) á, að í kosningunum til Alþingis í Reykjavíkurkjördæmi 1978 er autt atkvæði dautt atkvæði.

Kjósum Kommúnistaflokkinn

x-K





Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
21.tbl. 7.árg. 23.5. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



## Efnahagsmál í sjónvarpi: Alþýðan blekkt

Þriðjudaginn 16. maí sýndi sjónvarpið fyrsta þáttinn af fimm sem það hefur látið gera um efnahagsmál. Þættirnir bera yfirskriftina "Alþýðufræðsla um efnahagsmál" og er tilgangur þeirra sagður sá að fræða alþýðu manna á merkingu og notkun ýmissa hugtaka sem daglega eru notuð af stjórnmálamönnum og öðrum "sérfræðingum" í umræðum um efnahags- og þjóðmál í fjölmiðlum. Er það talið eiga vel við að sýna þessa þætti núna þegar þessar umræður standa sem hæst rétt fyrir kosningar. Umsjón þáttanna er í höndum tveggja valinkunnra manna, "sérfræðinga", þeirra dr. Þráins Eggertsonar og Ásmundar Stefánssonar hagfræðings (ASÍ) og var ætlunin að fjalla í fyrsta þættinum um þann mikla vágest verðbólguna. Þótti þeim félögum vel við hæfi að hefja fyrsta þátt sinn á því að flytja okkur, fávísri alþýðunni, stutt sögulegt yfirlit um þá merku fræðigrein hagfræðina. Er greinilegt að hér eru á ferðinni tveir alveg sérstakir hæfileikamenn, því léttilega komust þeir í gegnum sögulegt ágrip sitt án þess að minnast einu orði á það að til væri nokkuð sem kallað er marxísk hagfræði og hefur verið brúkað víða um heim með góðum árangri, og er verðbólga á þeim stöðum óþekkt fyrirbrigði.

Að loknu hinu sögulega ágripi var okkur tjáð sú raunarlega "staðreynd" að hagfræðin gerist nú æ flóknari svo að jafnvel hálærðum "sérfræðingum" okkar reynist stundum næsta erfitt að botna í eigin útskýringum og útreikningum, hvað þá óbreyttum almúganum. Það væri því sannarlega tími til kominn að þættir þessir kæmust fyrir augu alþýðunnar, því þeim væri einmitt ætlað að fylgja henni frumskóga hagfræðinnar og hjálpa fólki að mynda sér sjálfstæða skoðun um efnahagsmál.

### HÓFUST NÚ HINAR HÁLEITU ÚTSKÝRINGAR.

Eins og til staðfestingar því að stjórnendur þáttarins teldu alþýðumenn á Íslandi algera hálfvita hófu þeir mál sitt á því að færa okkur heim sanninn um það að: "Verðlag er meðalverð á hverjum tíma og verðbólga er hækkun verðlags". Það er ekki lítið sem þessir menn eiga guði að þakka

framhald á síðu 4





## Hvert er vald verkamanna?

Skömmu eftir að Dagsbrúnarstjórnin ónýtti framboð verkamanna til stjórnarkjörs, er þeir hugðust fella hana í lýðræðislegum kosningum í janúar í vetur, var miðstjórn Alþýðusambandsins sent bréf.

Það bréf innihélt kæru á hendur kjörnefnd Dagsbrúnar, sem er undir forystu Eðvarðs Sigurðssonar, og úrskurðar hennar um ógildingu á félagsréttindum 28 verkamanna er studdu mótframboðið. Verkamenn þessa, er studdu mótframboðið gegn Alþýðubandalagskrötunum sem stjórna félaginu, strikaði Eðvarð og félagar hans tveir í kjörnefnd út, fyrir þær sakir að skulda 2-3 þús. kr. í félagsgjöld fyrir seinni part ársins 1976.

Í ársbyrjun 1977 var tekin upp ný aðferð við að innheimta félagsgjöld Dagsbrúnarmanna, enda voru allir áðurnefndir 28 Dagsbrúnarmenn skuldlausir við félagið fyrir það ár. Bæði fyrir og eftir breytinguna á innheimtunni, var og er það í verkahring atvinnurekenda og Dagsbrúnarstjórnarinnar að hirða félagsgjöldin úr launaumslögum verkamanna. Því geta verkamennirnir 28 enga sök átt á því að vera skuldugir við félagið, þar er eingöngu um að kenna starfsháttum Dagsbrúnarstjórnarinnar.

Hræðsla Alþýðubandalagskratanna er stjórna félaginu við mótframboðið var slík, að þeir beittu ólýðræðislegum aðferðum til að ónýta það.

Viðbrögð miðstjórnar ASÍ við kærubréfi verkamanna á hendur kjörnefnd Dagsbrúnar, hafa engin orðið enn. Samt sem áður er það vitað að miðstjórnin hefur haldið marga fundi, þar sem bréf okkar Dagsbrúnarmanna hefur legið fyrir. En Alþýðubandalagsmenn eru í meirihluta í miðstjórn ASÍ og má þar finna skýringuna á því, hvers vegna afstaða er ekki tekin til kærubréfsins. Valdníðsluna er við verkamenn í Dagsbrún vorum beittir í vetur á að þegja í hel á meðal fjöldans, af uppkeyptu verkalýðsforingjunum, því kærubréfið sannar að núverandi Dagsbrúnarstjórn er algjörlega ólögleg.

Ef til vill er það af hræðslu við dóm verkamanna, að stjórnin er ekki enn búin að halda aðalfund félagsins en hann á að halda eigi síðar en 15. febrúar ár hvert, samkvæmt félagslögum. Þar á að lýsa kjöri stjórnar félagsins en núverandi stjórn hefur ekkert umboð frá verkamönnum í Dagsbrún. Hún er hvorki fugl né fiskur, heldur aðeins lítil klíka er situr enn við völd því verkamenn eru sundraðir og hafa enn ekki bolmagn til að sparka henni frá.

Sá dagur mun eflaust koma að hið rétta nái fram að ganga og vald verkamanna yfir eigin félagi verði tryggt.

## Verkakonur reknar úr Ísbirninum

### *Með fullu samþykki Þórunnar Valdimarsd.*

Tvær verkakonur er nýlega var sagt upp í frystihúsinu Ísbirninum á Seltjarnarnesi, komu að máli við Stéttabaráttuna. Önnur kvennanna hafði unnið um all nokkuð skeið í húsinu en báðar eru þær alvanar frystihúsavinnu og hafa þær meðmæli frá frystihúsi úti á landi er þær unnu áður í. Er verkstjórinn er heitir Gestur kom til þeirra og sagði þeim upp, tilgreindi hann þær ástæður að önnur þeirra hefði ekki áhuga á vinnunni en hin væri orðin ólétt. Sú er var komin nokkra mánuði á leið, vann í einu erfiðasta verkinu er hægt var að finna í húsinu, við að þvo bakka. Þurfti þá oft að beygja sig, lyfta upp 20 kílógramma þungum bökkum og hlaupa til og frá, allan liðlangan daginn.

Óskaði konan eftir því við verkstjórann að fá eitthvert léttara starf að vinna í húsinu en viðbrögðin urðu þá eins og áður greinir - henni var sagt upp. Eðlilega þótti báðum konunum súrt í broti að vera sagt upp á þeim forsendum er hér hafa verið sagðar. Þær sneru sér því til Verkakvennafélagsins Framsóknar, er frystihúsaverkakonur í Reykjavík eru í.

Þar áttu þær viðtal við formann félagsins Þórunni Valdimarsdóttur, er strax tók upp símann og hringdi í viðkomandi verkstjóra. Reyndi verkstjórinn að ljúga til um vinnu kvennanna en það sem kom meira á óvart var að Þórunn tók undir hvert orð er verkstjórinn sagði, þar sem hún sat fyrir framan konurnar. Sagði Þórunn að hún sæi ekkert ráð til að standa á rétti þeirra og í raun og veru hefðu þær engan rétt. Þær gætu bara prófað að leita eftir vinnu í einhverju öðru frystihúsi í Reykjavík.

Fjölmargar verkakonur hafa fengið svipaða útreið, er þær hafa verið órétti beittar af atvinnurekendum er Þórunn Valdimarsdóttir starfar fyrir.

Verkakonur í Framsókn eru í óða önn að skipuleggja sig til baráttu gegn verkalýðssvikurunum sem ráða stjórninni enda er starf stjórnarinnar og þá sérstaklega Þórunnar Valdimarsdóttur, smánarblettur er seint verður afmáður af verkalýðshreyfingunni.




## Keflavíkurganga herstöðvaandstæðinga verður 10. júní

FÉLAGAR – FJÖLMENNUM.

## Mótmælaaðgerðir Palestínunefndarinnar þriðjudaginm 30. maí KL. 16 30 við Hótel Sögu

Íslenska Palestínunefndin efnir til mótmælaaðgerða við Hótel Sögu, þriðjudaginn 30. maí, í tilefni af því að þrjátíu ár eru liðin frá stofnun Ísraelsríkis. Ísraelski sendiherrann (hann situr í Oslo) hefur í tilefni af afmælinu boðið til koktels á Sögu kl. 17 á þriðjudaginn 30. maí.

Saga Ísraelsríkis er blóði drifin saga kúgunar og útþenslustefnu og ofsóknum síonista gegn Palestínumönnum verður ekki betur lýst en með samanburði við ofsóknir Hitlers gegn gyðingum á sínum tíma. Palestínunefndin skorar á alla heiðarlega baráttumenn gegn heimsvaldastefnu og kynþáttakúgun að mæta til mótmælaaðgerðanna. MÆTUM STUNDVÍSLEGA!

Yfirskrift aðgerðanna er:

NIÐUR MEÐ SIONISMANN - LIFI FRJÁLS PALESTÍNA.

PALESTÍNUNEFNDIN